Enn þtta hlyt eg ad bioda. Ecke hrosande þui/ þ þier komit ei saman til Betrunar/hell-
dr til vesnunar. J fyrstu þa þier komit til samans j Samkundunum/heyre eg ad þar er sũ-
durlynde ydar a mille/og eg true ad þ sie og nockurn part. Þuiad þar hliota agreiningar at
va ydar a mille/so at þr s̃ Kiorner eru opinberer vóde ydar amille. Þa þier komet nu til samãs/
þa hallde þier ei DROTtins Kuelldmaltijd. Þui nær þier skut Kuelldmaltidena hallda/þa
tekur huer ydar sina eigenliga fædu adur/ enn annar er Hungradr/hiñ añar er drucken. Hũt
hafe þier eingen hus þar þier kuñit ad eta z drecka jñe? Eda forsmae þier Gudz Søfnud/
z skañit þa s̃ ecke hafa? Huad skal eg seigia ydur? Skal eg lofa ydr? J þssu lofa eg ydr ecki.

Um Kuelld-maltid DROTTINS † reynder

D

Þad huad eg hefi af DROTTNI mztekit/þ hefi eg ydr feingit. Af þui ad DROT-
TIN Jesus/a þre Nott er hñ var suikinn/tok hñ Braudit/giørande þacker/ braut þad og
sagde/Takit/etid/þetta er minn Likame sa fyrer ydr verdr giefen/giøret þad j mina miñing.
Lijka eirnin Kaleikiñ/epter þ hñ hafdi Kuelldmaltijdena etid/seigande/Þessi Kaleikur er nytt
Testamt/j minu Blode/Giøret þta/so opt sm̃ þier dreckit þar af/j mina miñing.

Math. 26. Mar. 14 Luc. 22.

E

Þuiad so opt sm̃ þier bergit af þssu Braude/og dreckit af þssum Kaleik/skulu þier kuñgiø-
ra þar mz Dauda DROTTINS/þãgat til hñ kiemr. Huer hñ etur nu af þssu Braude/
og dreckur af þssum Kalek DROTTINS overdugur/sa er sekur vid Holld z Blod DR-
OTTINS. Enn huer madr profi sig sialfur/og ete so af þssu Braude/z drecke af þssum
Kaleik. Þuiad huer hñ etur og dreckr overdugr/sa etur z dreckr sialfum sier Dom/mz þui hñ
giorde eigi ᵇ Greinarmũ a DROTTINS Likama

F

Fyrer þ eru so marger siuker og veykliger ydar a mille/og þr marger s̃ sofnader eru. Þui
ef vier dæmdum oss sialfer/þa yrdu vier eigi dæmder. Enn nær vier dæmunst/þa verdum vier
af DROTTNI tyftader/ vppa þad vier fyrerdæmunst eigi mz þssum Heimi. Fyrer þui
Brædur miner/nær þier komit til samans ad neyta/ þa bide huer annars. Eñ ef eirnhuern
Hungrar/þa eti sa heima/so ad þier komit ei saman til doms afellis. Enn hitt annat vil eg
skicka þa eg kem.

b (Greinarmun) Sa sm̃ handtier ar Christi Likama/og hñs neyt er/aktande hñ ei gi meir enn ann an Mat

G

# XII.

OG af þm andligum giøfum/vil eg eigi dylia fyrer ydr goder Brædr. Þier vi-
tid þad þier vorut Heidner/og geingut burt til mallausra Skwrgoda/sm̃ þier
vrdut til leidder. Fyrer þui kuñgiøre eg ydr/þat eingen sa sm̃ fyrer Gudz An-
da talar/formæler Jesu. Og eingen fær Jesum DROTTIN kallat/vtã
alleinasta fyrer heilagan Anda.

Vt af þeim andligu Gudz gaþum

A

Senneliga eru giafernar marguisligar/eñ hinn same er Andin/ Þar eru
og marghattud Embætte/eñ hinn sami DROTTIN/Þar eru marghattadar verkaner/eñ
hiñ same Gud er/sm̃ verkar alla hluti j øllum. Eñ j sierhueriũ einum audsyna sig giafer An-
dãs/til almeñiligrar nytsemdar. Einũ ódr giefit fyrer Anda at mæla af Visku/ eñ ødrũ ver-
dur giefit at tala af Skynsemi/af hinum sama Anda/Ødrum Truan j sømum Anda/eñ hi-
num giafer Lækninganna i sømum Anda/Ødrum kraptauerk ad giøra/enn ødrum ad giøra
atskilianliga grein Andaña/ Hinum ødrum marghattud Tungumal/ enn ødrum vtlegging
Sagnaña. Enn allt þtta verkar eirn og hinn same Andi/skiptañdi sierhuerium epter þui s̃
hañ vill.

B

C

Þuiad lika so sm̃ eirn Likami er/og hefur þo marga limu/eñ aller Limer eins Likama/hũ-
su marger sm̃ ad eru/þa eru þr þo einn Likame/ Lijka so er Christur. Þuiat vier erum j einũ
Anda/ aller j eirn Likama skirder/ huort vier erum Gydingar edr Grisker/Þrælar edr Frelsin-
giar/Og erum so aller j einum Anda dryckiader. Þuiat Likamiñ er eigi eiñ Limr/helldr mar-
ger. Og ef Foturen segde/ Eingen hønd er eg/ þar fyrer er eg eigi Limr Likamans/Skylldi
hñ nu þui ecki vera Likamans Limr? Og ef Eyrat segde/Eg er eigi augat / þar fyrer er eg
ecki Limur Likamans/Skyllde þ saker þss ecki vera Likamans Limur? Þui ef allur Likamen
være Augat/huar være þa heyrnen/Huar være þa jlmingen?

D

Eñ nu hefur Gud sett Limuna/z huern eirn þra a Likaman/so s̃ hñ hefur viliat. Eñ ef
aller Limerner være eirn Limur/Huar være þa Likamen? Enn nu eru Limerner marger/ eñ
Likamen eirn. Þuiat augat ma eigi seigia hendiñe/ Eg þarf þin eigi vid/ eda þar j mot
Høfudit til Fotanna/Eg þarf eigi ydar vid. Myklu helldr/þeir Limer Likamans sm̃ oss syn-
ast breyskuaster vera/þr eru naudsynligaster/ og þa vier reiknum otierugasta/þm sømũ legg-

E

ium

sum vier mestan soma til/Og þr ed oss eru lyte at/virdu wier mest/Þuiat þr sm̄ oss pryda/þurfa þss eigi vid. Enn Gud hefur so Likaman samanteingt/og giefit þm naudsynia limū hiñ mesta soma/ so ad eingen agreining sie a Likamanū/ helldr pad huer Limuren ber ahyggiu fy
F rer odrum. Og ef eiñ Limuren lijdr/þa lijda aller Limerner mz/Og ef einum Limnum verdr Some veittur/þa samfagna honum aller Limerner.

Enn þier erut Christz Likame/z Limer/huer epter sinne deilld. Og Gud hefur sett j Søfnudiñ/j fyrstu Postula/þa Spamenn/j þridia mata Lærefedr/epter þat þa sm̄ kraptauerkin giøra/þar næst þa sm̄ Lækni̇ngs giafernar hafa / þa Vidhialparana/ þa Stiornarana/þa
G marghattud Tungumal. Eru þr aller Postular? Eru þr aller Spameñ? Eru þr aller Lærefedr? Eru þr aller þr menn sm̄ Kraptauerken giøra? Eda þr sm̄ Lækningsgiøfena hafa? Tala þr aller marghattud Tungumal? Kunna þr aller vt ad leggia? Epterstundit þeim hinum bestu giøfunum. Og eg vil vijsa ydr eñ ædra veg.

# XIII.

A Þo ad eg talade Tungr mannaña og Einglanna/eñ hefda ecki Kiærleikañ/ þa være eg sm̄ annar hliomande Mælmr/edr huellande Bialla. Og þo at eg hefda Spadō/z visse alla leynda hlute z skynseme z hefde alla Tru/so ad eg Fiøllen vr stad færde/ eñ hefda ecki Kiærleikan/þa væra eg eckert. Og
B þo ad eg giæfe allar minar eigr Fatækum/ og eg yfergiæfi minn Likama so ad eg brynne/z hefda ecki Kiærleikan/ þa være mier þ eingen nytsemd. Kiærleikuren er þolinmodr/og vingiarnligr/Kiærleikuren Vanlæter eigi/ Kiærleikurinn giører eckert jllmannliga/ eigi blæs hñ sig vpp/ei er hñ osidsamr/eigi leitar hñ þss huad hañs er/eigi verdr hñ til jlls egndr/hñ hugsar ecki vondsligt/ eigi fagnar hñ yfer Ranglætinu/ enn
C fagnar Sañleikanū. Hñ vmber alla hlute/hñ truer øllu/hñ vonar allt/hñ vmlijdr alla hlute Kiærleikuren hñ dodnar alldrei/þott Spadomuren hiadne/og Tungumalunū slote/z Skynseminne linne

Þuiad vorer Vitzmuner eru a Halfuerk/og vorar Spasagner eru halfuerk. Enn nær þ kiemr s algiørt er/þa hiadnar þ s halfuerk er: Þa eg var Barn/talade eg s barn/z eg var
D forstall sm̄ Barn/og eg hugsadi sm̄ Barn/Enn þa eg giørdist madr/lagda eg af huad bernsk ligt var. Nu siaum vier fyrer Speigilen ad rædgatu/enn þa auglit ad auglite. Nu kenne eg ofullkomliga/eñ þa mun eg kieña so sm̄ eg em kendur. Nu blijfa þsse þriu/Truan/Vonen/ Kiærleikuren/ eñ Kiærleikuriñ er mestr af þssum.

(Vm Kiærleikan)

(a Halfuerk) Enn þa wier høfum alla hlute i Truñe/og vitum huad Gud er og huat hñ oss giefur/ þa er þo slijk kieñing eñ so sm̄ halfuerk og ofullkomen ad reikna i hia þre epterkomande Dyrd

# XIIII.

A Epterfylgit Kiærleikanum/z kostgiæfist j andligum giøfum/eñ þo mest j þui ad þier mættud Spadoma fyrerseigia. Þuiad hñ s Tunguñar talar /hñ talar eige møñum/helldr Gude/Þuiat honum heyrer eingen/Enn j Andanum talar hñ leynda doma. Enn hñ s Spadoma seiger fyrer/ sa talar møñum til betrunar/og til aminningar og til huggunar. Sa Tunguna talar / hñ forbetrar sialfan sig/Eñ sa s Spadoma seiger fyrer/ hañ forbetrar Gudz Søfnud. Eg villda ad þier kynnit allar Tungr ad tala/Enn þo myklu helldr þier segdut Spadoma fyrer. Þuiad sa sm̄ Spadoma seiger fyrer/hñ er þm meire sm̄ Tunguna tal-
B ar/vtan ad so sie/hñ legge þ vt/so ad Søfnuduren fae þar af forbetran. Eñ nu goder brædr/ þott eg kiæme til ydar/og talade Tungr/Huad være eg ydr gagnligr? Nema ad eg talade til ydar/ añathuort fyrer opinberan/ eda fyrer Skynseme/eda fyrer Spasagner/eda fyr Lærdō. Er þm hlutum eigi so hattat er hlioda/eñ lifa eigi? Huort pad er nu Pijpa edr Harpa / fyrst pad giefur onguan greineligan hliom af sier/Huernen ma þa vitast huad pijpat er/eda huad harpat er? Og ef Ludruren hefur oskilmerkeligt hliod/Huer mun þa vilia bwast til Bardagans? Lijka og þier/Nær þier talit Tungr/vtan þier giefit fram skilmerkiliga rædu/ Huernen ma þa vitast huad talat er? j Þuiad þier talit þa j vind.

C Senneliga er margt raddar kyn j þssum Heime/Og þo er eckert þra oskilmerkeligt. Og fyrst eg veit ecki þyding malsins/þa verd eg þm sm̄ talar oskilianligr/ og hañ sm̄ talar verdur mier oskilianligr. So og lijka þier/Fyrst þier erut eprerfylgiarar andligra giafa/ þa leitid epter þui ad forbetra Søfnuden/vppa þ þier giefit og fulla nægd.

(Nūnen menn skulu hætera Gudz gaps a Tungr ad tala) Pad er Psalma edr Spadoma i Samkundum at lesa/eda syngia og ecki wt at leggia þo ad sa vnderstande sm̄ les eñ Spadoma þyrer ad seigia/ þ er hugskotid ap Gude ad medtaka/og ødrum gefa kuña/enn wt at leggia er hugskotid ødrū ad styra/so meinar hinn heilage Pall pad Tungur ed tala betre ecke Søpnudin/eñ Spadoma

Huar fyrer/ sa sm̄ Tungu talar/hn̄ bidie/so ad hn̄ vtleggi þ/Þui fyrst eg bid mz Munne/num/þa bidur og minn Ande/Enn mitt hugskot ber onguan Auoxt/Huernen fer þa? Einkū so/Þad eg vil mz Andanum bidia/og eg vil bidia j Hugskotenu. Psalmana vil eg syngia mz Andanum/ꝛ eg vil Psalmana syngia ᵇ mz Hugskotinu.

Enn þa þu blezar j Andanum/Huernen skal þa sa sm̄ j Leikmansins stad stendur/Amen seigia yfer þinne blezan/mz þui hn̄ veit eigi huad þu seiger? Sanneliga giører þu godar þacker/Eñ hiñ annar betrast þar eigi af. Eg þacka Gude minum/ þad eg tala meir Tungur/enn aller þier/og helldꝛ vil eg tala fim̄ ord j Søfnudenum mz minu ᶜ sinne/so ad eg lærde adra/helldꝛ enn tiu þusunder orda mz Tunguñe. D

Goder Brædꝛ/verit eingen Børn j skilningar sinnunum/helldꝛ verdit Børn j Illskuñe/eñ verit algiørder j skilningar sinnunum. J Løgmalinu er so rikat/Eg mun mz añarligum Tungum og añarligum vørum tala til Lydz þssa/og eigi munu þr helldꝛ mig heyra/seiger DROTTJN. Þar fyrer eru Tungurnar til Teikns/eigi þm s trua helldꝛ vantruudū/Eñ Spadomuren er eigi vantruudum/helldꝛ truudum.

Þott nu allur Søfnuduren kiæmi til samans j eiñ stad/og tøludu aller Tungur/Enn þar geinge jnn olærdur Leikmadꝛ/eda vantruadꝛ/segdu þr ecki ad þier værut galder? Enn ef þier segdut aller Spadoma fyrer/og þar geingi jnn einhuer vantruadꝛ eda olærdur /sa yrde þegar af øllum þm yferunnen/og af øllum dæmdur/Og þa yrde so leynder domar hn̄s hiarta opinberer/og so være hn̄ framfallande a sitt andlit/Gud ad tilbidia/sannarliga þ vidurkeñande ad Gud sie mz ydur. E

Huersu a þa ad fara goder Brædꝛ? Nu so opt sm̄ þier komit til samans/þa hafe huer ydᵛ eirn Lofpsalm/eda hafi hn̄ Lærdoma/eda hafi hn̄ Tungꝛ/eda hafi opinberaner/ eda hafi vtlegging/Þa latid þad allt skie til betrunar. Og ef einhuer talar Tungꝛ/þa verde þat añad huert af tueimꝛ eda mest af þrimꝛ/ og þad sin a mille/so ad eirn legge þ vt. Eñ ef hn̄ er eingen vtleggiare/þa þeige hn̄ j Søfnudenum/ꝛ tale sier sialfum ꝛ Gude. F

Enn Spameñ tale tueir eda þrijr/ꝛ hiner adrer dæme vm. Enn ef ødrum birtist þm ed hia situr/þa þeigi hiñ fyrre/Þuiat aller meigi þier Spadoma fyrer seigia/huer epter añan/So ad aller lære/og aller verde aminter/Og Ande Spamañanna er Spamøñunū vnderuorpen. Þuiad Gud er eigi Gud Vanheidursins/helldꝛ Fridarins/ suo sm̄ i øllum Søfnudum Heilagra. Ydrar Hwsfreyur latid þeigia j Søfnudenum/þuiad þm nia ei leyfast ad tala/helldꝛ vndergiefnar ad vera/epter þui sm̄ Logmalit vottar. Eñ ef þær vilia nockut læra/þa spyrie þær meñ sina ad þui heima. Þuiad Konuñe eru þ lyte/ad tala j Safnadenum. Eda er Gudz Ord af ydur vtkomit ?Eda er þ til ydra einnasaman komit? Ef nockrum þiker þat hn̄ sie Spasagnamadꝛ eda andligꝛ/þa vidurkeñe sa huad eg skrifa ydur/Þuiad þad eru Bodord DROTTJNS. Enn ef nockur er skynlaus/þa sie hn̄ skynlaus. Fyrer þui goder brædur/kostgiæfit Spadomana ad seigia/ꝛ fyrerbiodit ecki Tungurnar at tala. Latid allt sidsãliga og epter skickan skie ydar a mille. G

## XV.

ENN eg minne ydur/goder Brædꝛ/a þad Euangelium sm̄ eg predikade ydꝛ/huert þier og mztokut/j hueriu þier og standit/fyrer huert þier ødit og hialpliger/Medꝛ þm hætte sm̄ eg kuñgiorda þ ydꝛ/ef þier hafit þui halldit/Vtan ad so sie þier hafit til onytz truat. A

Þuiad eg gaf ydꝛ j fyrstu/huad eg mztok/Þad at Christus sie liflaten fyrer vorar Synder/epter Ritningunum/og þad hn̄ sie grafiñ/og vppaptꝛ risiñ a þridia deigi/epter Ritningunum. Og þ hn̄ er siedꝛ af Cephas/ꝛ epter þad af hinum tolf. Og enn eptera var hn̄ siedꝛ meir eñ af fim̄ hundrut Brædra j señ/ af hueriū marger eñ lifa til/enn nockrer eru sofnader. Og epter þad er hañ siedur af Jacobo/ og sidan af øllum Postulunum.

Enn sidast allra/so sm̄ af ødrum otimabærum burde/er hn̄ siedꝛ af mier. Þuiad eg em sidstur Postulanna/þuiad eg em eigi verdugꝛ þad eg skule Postule heita/Fyrer þ eg ofsokn veitte Gudz Søfnude. Enn af Nad Gudz er eg/þad eg er/og hn̄s Nad j mier hefꝛ ei Jdiulaus verit. Helldꝛ hefe eg myklu meira erfidat enn aller þr/Ecke eg/helldꝛ su Gudz Nad sm̄ med mier er. Þad sie nu eg/edꝛ þr/þa predikum vier so/þier hafit og so truat B

enn

Margin notes:

þramseigia og wt at leggia þat betrar Sᵃ þnudena/i andanum kalladur mz sial þuni sier

ᵇ mz hugskotinu) Þad er so mikit sm̄ wt ad leggia og hugskotid ad auglysa/enn i Andanum ad tala/Þat er hugskotid sialþur at wnderstanda og wt ad leggia

ᶜ (Sinne) Þad er hugskotid mz predikuniñe wt at leggia

Vt af Vppᵃusu þramlidiña

Enn fyrst ad Christur verdꝛ so predikadꝛ/ þ hn̄ sie vpprisin̄ af dauda / Huernen seigia þa nockrer af ydur/ þad vpprisa framlidinna sie ecki? Og ef vpprisa framlidinna er ecki / þa er Christur og ecki vpprisin̄. Enn ef ad Christur er ecki vppaptur risinn/ so er vor Predikan onyt/ þa er og yduar Trua onyt/ En̄ vier fyndust Liuguottar Gudz/ mz þui vier hefdum vitnat j giegn Gude/ þad hn̄ hefde Christum vppuakit/ þan̄ hn̄ hefꝛ ecke vppuakit/ Fyrst hiner fra̅lidnu skulu ecki vpprijsa. Þui ef Framlidner skulu ecki vpprisa/ þa er og Christur ecki vppaptur risinn. Enn ef Christur er ei vpp aptur risinn/ þa er ydr Trua onyt/ so eru þier þa en̄ i ydrum Syndum/ þa eru og hiner sm̄ sofnader eru j Christo fortapader. Ef vier vonum alleinasta j þessu life a Christum/ þa eru vier hiner vesolustu allra man̄a.

[E]

Enn nu er Christur vppaptur risinn af dauda/ og Frumburdur vorden þra sm̄ sofnader eru. Af þui/ ad fyrer eirn man̄ kom Synden/ Og fyrer eirn man̄ kom vpprisa framlidin̄a. Þuiat lika so sm̄ þr dou aller fyrer Adam/ So verda þr og aller lifgader fyrer Christum̄. En̄ huer eirn j sin̄e skickan. Frumkuedillin er Christꝛ/ ⁊ þar næst þr sm̄ Christs eru j hn̄s tilkomu. Þar næst endalokin/ þa hn̄ hefur ofurgiefit Rijkit Gude Fodꝛ/ og mun hn̄ afma allan Hofdingsskap/ Herrasticte/ og Vallostiornan. Enn honum byriar at rijkia þar til hn̄ leggꝛ alla Ouine vnder sina Fætur. [Psal. 110] [Psal. 8.]

Enn þan̄ sidaste Ouin/ sm̄ afmadꝛ verdur/ er Dauden. Þuiad hm̄ hefur hn̄ alla hlute vnder sina fætur lagt. Og þa hn̄ seiger/ þad ad allt sie vnderlagt/ þa er þ opinbert/ ad sa er vndantekinn/ sm̄ honum hefur alla hlute vnderlagt. Enn nær honum eru aller hluter vndergiefner/ þa mun og sialfur Sonuren vndergiefast þm̄ sm̄ honum vndergaf alla hlute/ suo ad Gud sie allt j ollum hlutum.

[D]

Huad giora þr elligar/ s skirast vpp yfer framlidnum? Ef ad hiner framlidnu sku ecki vppaptur rijsa/ Huar fyrer skirast þeir þa vpp yfer þm̄ Daudu? Og huar fyrer eru̅ vier þa allar stunder j Haskasemd. Dagligana dey eg fyrer vora hrosan/ hueria eg hefi j DROTTNI vorum Jesu Christo. Hafi eg epter mannligre venu/ barist vid Skogdyren j Epheso Huer nytsemd er mier þad þa/ ef ad hiner framlidnu skulu eigi vppaptur rijsa? Etu vær og dreckum/ þuiad a morgun deyu vier. Latid ecki tæla ydur/ Þui vondt Samtal spiller godum sidum. Vaknit riettliga og syndgist ecki/ Þuiad sumer þier Vitid eckert af Gudi/ en̄ þta hlyt eg ad tala/ þui þat er ydꝛ vanuirda. [Esa. 22.] [Poeta Menander]

Nu mætte einhuer seigia/ Huernen munu hiner Framlidnu vpprijsa? Og mz huilijkū Lijkama munu þr koma? Þu Druise/ þad er þu sær lifnar ecki/ vtan þad deyie adꝛ/ Og þad þu sær er ecki sa likame sm̄ verda skal/ helldꝛ bert Korn/ an̄ad huert Hueitis eda einhuers an̄ars Enn Gud gefur þui likama/ epter þui sm̄ hn̄ vill/ ⁊ sier hueriu einu af Fræinu eigenligann Likama. [Huerne Vpprisa framlidinna skal skie]

[E]

Allt holld er ei lijka hattad holld/ helldꝛ er annat Holld mannanna/ an̄at Dyranna/ an̄at Fiskanna/ enn an̄at Fuglan̄a. Þar eru og Himneske Likamar/ ⁊ Jardneske Likamar/ Enn adra Dyrd hafa hiner Himnesku/ enn adra hiner Jardnesku/ Annan biartleik hefꝛ Solin/ enn an̄an biartleik Tunglit/ An̄an biartleik hafa og Stiornun̄ar. Þuiad ein̄ur Stiarnan yferuinnur adra j biartleika/ so og vpprisa Framlidinna. Þad verdꝛ sæd forgeingeligt/ en̄ mun vpp aptur rijsa oforgeingeligt/ þad verdꝛ sæd j vansemd/ En̄ mun vpp aptꝛ risa j vegsemd. Þad verdꝛ sæd j breyskleika/ en̄ mun vpp aptur rijsa j Krapte. Þad verdur sæd kiotligur Likame en̄ mun vppaptur rijsa andligꝛ Likame.

[F]

Hofum vier nu Kiotligan Likama/ þa hofu vier og andligan likama/ so sm̄ ad skrifat er/ Jnn fyrste madꝛ Adam/ er giordur i edleligt Liferni/ og hinn sidare Adam j andligt Lijferni. Enn hin̄ fyrste er eigi andligur Likame/ helldꝛ edligꝛ/ Og epter þ er hinn Andlige. Hinn fyrste madꝛ af Jordunni er Jardligꝛ/ Enn hin̄ an̄ar madꝛ er DROTTJNN af Himnum. Huilijkur hinn Jardneski er/ so eru og hiner Jardnesku/ Og huilykur hinn Himneske er/ so eru og hiner Himnesku. Og lika so sm̄ vier hofum borit liking hins Jardneska/ so munu vier og bera lijking hins Himneska. [Gen. 2]

Enn þar seigi eg af/ goder Brædꝛ/ Ad Holld ⁊ Blod getur eigi eignast Gudz Rijke/ Og hid forgeingeliga/ mun eigi eignast hid oforgeingeliga. Siaet: Ad eg seige ydur leyndan Dom/ Þuiad vier munum eigi aller sofna/ En̄ þo munu vier aller vmskipteliger verda/ og þat næsta skyndeliga/ a einu Augabragde/ vid hinn sijdasta Ludur þyt. Þuiad Ludurenn mun gialla/ ⁊ hiner framlidnu munu vpp rijsa oforgeingeliger/ Og vier hiner munum vmskipteligr

[G]



verda/

verda. Þuiad þta hid forgeingeliga hlytr ad klædast þui hinu oforgeingeliga/ og þta hid daudliga hlytur ad skrydast hinu odaugliga

Enn þa þta hid forgeingeliga skrydist hinu oforgeingeliga/ z þta hid daudliga klædist hinu odaudliga/ vppfyllist þad mæl sem skrifat er. Dauden er forsuelgdr j [a] Sigran. Daude huar er þinn Broddur? Neluite/ huar er þin Sigran? Enn Daudans Broddr er Synden/ Kraptur Syndarinnar er Løgmalit. Enn Gude sie þacker/ sem oss hefur Siguren gefit/ fyrer DROTTIN vorn Jesum Christum. Fyrer þui Brædr miner/ verit stadfaster og ohræranliger og aukist ætijd j verke DROTTINS/ mz þui þier vitid ad yduart Erfuide er eigi onytt j DROTTNI.

a (Sigran) Þat er/ Daudinn er Sigradur og hefur onga magt þramar meir/ helldr hefur Lyþet Siguren/ og seiger/ Eg hefe siguren vunit/ Huar ertu nu Daude? etc.

## XVI.

ENN af þre studning/ sem skie skal vid hina heilogu/ so sem ad eg hefi bodit Søfnudunum j Galatia/ þa giøre þier og lijka. Og sier huern Þuottdaga/ þa leggi huer ydar hia sialfum sier/ og samansafne huad honum er bæriligt/ Suo ad eigi þurfe þa ed fyrsta er eg kiem til/ þessare studning saman ad safna. Enn þa er eg kiem þar/ vil eg senda þa þadan/ hueria hellst þier kiosit til mz Brefin/ so ad þr flytie ydra goduilld til Jerusalem. Og ef þess giørist þørf/ ad eg ferdist þangat/ þa skulu þr mz mier fara. Enn eg mun koma til ydar/ þa eg fer vm Macedoniam/ Þuiad vm Macedoniam mun eg ferdast/ Enn ma vera ad eg blijfe hia ydr/ og sie þar eirnen vm Veturen/ so ad þier giørit mina vtfør/ huert sem eg kann ferdast. (A)

Nu vil eg eigi sia ydr j þessare yferferd/ Þuiad eg vona þad eg mune vm stundar saker tefia hia ydur/ ef DROTTIN lofar. Enn j Epheso mun eg dueliast allt til Huitasunnu/ Þui ad mier eru þar myklar dyr opnadar/ og þr eru kostgiæfner/ enn marger eru þar motmælendr. Og þa Timotheus kiemr til ydar/ siaed so til hann sie vtan otta hia ydr/ Þui hann rekr DROTTINS erinde/ so sem ad eg. Fyrer þui forsmae hann eingen/ Helldr leidit hann vt j Fride/ suo at hann kome til min/ þuiad eg bijd hans mz Brædrunum. (B)

Timotheus

Enn af Apollo Brodr (þa vit id) þad eg hefi amint hann marga vega/ ad hann kiæme til ydar mz Brædrunum/ Enn þad var mz onguu mote hans vilie/ þ hann kiæme nu. Enn hann mun koma þa hann fær tom til. Vakit/ og standit j Trunne. Berit ydur Kallmannliga ad/ og verit styrkuer. Alla ydra hlute/ latid skie j Kiærleika. (C)

Apollo

Enn eg aminne ydr goder Brædr/ Þier kiennet Heimkynne Stephane/ þ þr eru frumburder þra j Achaia/ og sialfer hafa þr skickat sig til þionustu vid Heilaga/ vppa þ þier sieut og þuilijkum vndergiefner/ og øllum þeim þm sameruida. Enn eg fagna af Stephane z Fortunati/ og Achaici tilkomu/ þui huad mig vantade hia ydur/ þad vppfylldu þr/ Þuiad þr nærdu minn Anda od yduarn/ Fyrer þui vidurkiennit þa fyrer þess hattar menn.

Stephana

Fortunatus Achaicus

Ydur heilsar Søfnuduren j Asia. Ydr heilsar mykliga j DROTTNI Aquila z Priscilla/ mz þeim Søfnude j þra husi. Ydr heilsa aller Brædr. Heilsit huer ødrum mz Heilogum Kosse. Eg Pall heilsa ydr mz minne hende. Og ef sa er nockr/ hann elski ecki DROTTIN vorn Jesum Christum/ þa sie hann [b] Anathema Maharam Motha. Nad DROTTINS vors Jesu Christi sie mz ydr. Mijn Kiarleike sie med ydur øllum j Christo Jesu/ AMEN. (D)

b (Anathema) Þad þydist a Norrænu Bann/ Anathema vppa Girsku Maharam/ vppa Ebresku er hid sama Mothen/ þ kallast Daude/ nu vill S. Pall seigia/ Huer hann elskar ecki Christum sa er Bølvadr til Dauda Les Levi xxvi.

Hinn þyrre Pistill til Þeirra i Corintheu Borg sendr vt af Philippis/ fyrer Stephanon og Fortunatum og Achaicum og Timotheum.

# Formale yfer annan S.

Pals Pistil til þra i Corinth

Þeim fyrsta Pistle/hefur hinn heilage Pall hardliga straffat þa j Corinthiu/ i mörgum greinum/hellande snörpu Vyne i Beniarnar/og hrædande þa so. Enn nu sm̄ einum postula og huggunarsamligum Predikara ber ad vera/widrietter hn̄ hinar bliugu og skielfdu Samuiskur/framar enn hrellande. Fyrer þui prijsar hn̄ nu þa aptr i þssum Pistle/Hellande so Vidsmiöre i Sarin/tiaandi sig þm̄ næsta wingiarnligan/og biodande þm̄ ad medtaka hinn Synduga aptur m̄z Kiærleika.

J hinum fyrsta og ödrum Cap. auglyser hn̄ sinn Kiærleika widr þa/huersu ad hn̄ hefur alla hlute/sagt/giört/ og lidit þm̄ til nytsemdar og heilsugiafar/ So ad þeir mættu þuï helldur alls hins besta til hn̄s wænta.

Epter þad i hinū þridia fiorda og fimta prijsar hn̄ Gudzspialligt embætte/huert ad sie/hid allra hædsta og huggunarsamligasta verk/Samuitskunum til nytsemdar og hialprædis/og wtuisar/ad þad sama sie aullu ædra eñ Lögmalsins embætte. Og at þad werde og ofsoknum sött/eñ auaxtist þo hia truudum/og afle fyrer Krossburden won eilyfrar Dyrdar. Enn iafnframt þessu öllu/afstingur hn̄ fals Postula/þeir ed Lögmalit hardliga hnwdu fram i giegn Gudz Euangelio/Huerier ecki wtan augsynis heilagleik( þad er Hræsne )bodudu/og lietu hinar iñre skam̄er Vantruariñar kyrrar wera/þetta giörer hn̄ nu i hinum þridia fiorda og fimta Capitula.

J hinum siötta og siöunda aminner hn̄ þa/þad þr epterfylge slykre Predikan m̄z werkum og lijdingu. Og lyktar þad medr þeirra lofsögu/Vppa þad ad hn̄ huette þa so til meire atiefdar.

J Atta og Niunda/aminner hn̄ þa þad þeir weite i þre dyrre tijd/Hialp og studning þeim Heilögum/ sm̄ til Jerusalem höfdu i wpphafe öll sin audæfe ofurgiefet/Act. iiij. Cap.

J hinum tiunda ellefta og tolfta/hefur hn̄ ad skaffa widur þa Fals postula.

J þrettanda heiter hn̄ þeim hardindum sm̄ syndgat höfdu og ecke betrudu sig.

# Annar S. Pals Pistill
## Til Corinhtios
### I.

A — PAll Postule Jesu Christi/fyrer Gudz vilia/og Timotheus vor Broder.

Þeirre Gudz Safnan j Corinthio/samt øllum Heiløgum þm̄ ad eru j øllu Achaia:

Sie Nad og Fridr m̄z ydur/af Gude vorum Fødur/ og DROTTNI Jesu Christo.

Blezadr sie Gud/Fader vors DROTTINS Jesu Christi/ huer ad er Fader Myskunsemidanna/og Gud allrar huggunar/sa oss huggar j allre vorre hrygdan/So ad vier gietum z huggat þa/ s̄ eru jallzhattudum Hrygdum/medr þre huggan/þar vier verdum m̄z af Gude huggader. — *Þackargiørd. Psal. 44*

B — Þuiad lijka so sm̄ ad yfergnæfa Harmkuælingar Christz j oss/ So og lijka yfergnæfer vor huggun fyrer Christum

Enn huort ad vier høfum hrygd edr Huggan/þa skier þad ydr til goda. Er þ Hrygging þa skier þ ydr til huggunar/og heilsugiafar(huer Heilsugiøf ad audsyner sig/ef þier a þann mata m̄z Þolinmæde lidit/lika sm̄ þ vier lidum)er þad Huggan/so skier þ ydr til Huggunar og hialprædis. Og vor Von er stadføst fyrer ydr/af þui ad vier vitum þad/at lijka sm̄ þier erut hluttakarar ordner Hrygdaña/so munu þier og verda hluttakendr Hugganariñar. — *Hørmung. Huggan*

Þuiad vier vilium eige dylia fyrer ydur goder Brædur/ vora Hrygd/ huer oss skiedi j Asia þuiad vier vorum odæmeliga forþyngder/og yfer megn fram/so ad vier øruæntum eirnen lijfi ad hallda/

C — vrskurdande þad m̄z sialfum oss ad vier ættum ad deyia. Enn þ skiede þar fyrer/ at vier settum ecki vorn trunad a sialfa oss/helldr vppa þann Gud er Dauda vppuekur/ huer oss hefur frelsad af þuilijkum dauda/og nu dagliga frelsar/ Og eñ vonū þ hn̄ mune oss frelsa hier epter/fyrer tilstyrk ydrar fyrerbonar fyrer oss/so ad fyrer þa gaafu sm̄ oss er giefen/fyr margar Personur yfer oss/skie mykel þackargiørd

Þuiat vor hrosan er þ/s̄ er vitnan vorrar Samuisku/Þad vier høfū j einfalldleik z Gudz skiærleika/eigi j holldligre visku/helldr j Gudz Nad geingit j Heiminū. Eñ eiña mest hia ydr/ þuiad vier skrifum ydur ecki annad til enn þad þier lesit og vitid. Enn eg vona þad þier munut kienna oss so allt til endaloka/so sm̄ þier hafet z kient oss af nockure alfu. Þuiad vier — *Hrosã Pauli*

erum ydar

erum ydar hroſan/ lijka so ē ad þier erut og vor hroſan/ a deigi DROTTINS Jesu. Og vppa þuilikan Truſkap/ þeinkta eg nu adr ad koma til ydar/ vppa þad þier audluduſt tuefall dar velgiørder/ z eg ferdadiſt fyrer ydur/ j Macedoniam/ og kiæme vr Macedonia aptur til ydar/ og verde so af ydur a veg leiddr j Judeam **D**

a (Amen) Þad er öruggligt og saunarligt

Eñ hafe eg lauſlynde framit/ þa er eg hugleidda ſlikt/ Eda er min Fyrerhugſan Kiøtlig? Eigi so/ helldr hia mier er Ja/ Ja/ og Nei er Nei. Enn Trulyndur er Gud/ þuiad vor Ord voru ei til ydar Ja og Nei. Þuiad Sonur Gudz Jesus Christur/ sa ad fyrer oſſ er a medal ydar predikadr/ fyrer mig og Siluanum og Timotheum/ hñ var eige Ja og nei/ helldur var þ Ja i honum. Þuiad øll Gudz fyrerheit eru Ja j honum/ og eru [a] Amen j honum / Gude til Dyrdar/ fyrer oſſ. Enn Gud er sa sm̄ oſſ ſtadfeſter samt ydur j Christo/ og oſſ hefur ſmurt og jnnciglat/ z j vor hiørtu gefit Pant Andarins

# II

Enn eg akalla Gud til Vitnis/ vppa mina Saal/ þad eg þyrmda ydr j þui/ ad eg kom ei aptr til ydar j Corintho. Ecki þad vier Drottnum yfer yduare Tru/ Helldr erū vier tilhialpendur yduars fagnadar/ þuiad þier ſtandit j Truñe. Eg þeinkta og mz ſial fum mier þ/ ad koma eigi aptur til ydar mz hrygd. Þui ef so er/ ad eg hrygge ydr/ Huer er hñ þa/ sa er mig gledr/ vtan einaſta sa sm̄ af mier verdur hryggr giør? Og þat hid sama ſkrifade eg ydr/ so ad eg þyrfte eigi hryggr ad vera / þa ed eg kiæma/ af hueriu eg ætta þo gladur ad vera. Med þui at eg treyſte þſſ til ydar allra/ þad ad minn Føgnudur ſie allra ydar Føgnudr/ Þuiad eg ſkrifade ydur til j mykille hrygd/ z hiartans trega/ mz mørgū Tar føllum/ Eigi þ þier ſkylldut hrygguer verda/ hellr þ þier ſkylldut kienna þañ kiærleika ē eg hef/ ſierdeilis til ydar. **A** **B**

a (Næger) Hañ talar vm þann hñ ſtraffade adur i fyrſta Cap. og bidur ad m̄taka hñ aptur

Enn þott einhuer hafi Hrygdan vppbyriat/ sa hefur ecki mig hrygdt/ helldur einaſta j nockurn mata/ vppa þad at eg þyngda ydur eigi alla. Enn þ [b] næger ad sa same er af mørgū so ſtraffadr/ vppa þ/ þier fyrer giefid honum nu hiedan af/ þui framar/ z Huggan veitid/ so ad hñ ſøckuiſt ecki j ofmyklan hryggleik. Huar fyrer ad eg beide ydr/ þad þier audſynit a honum Kiærleik. Þui fyrer þ ſkrifade eg ydr til/ þad eg kienda ydra raun/ huort ad þier værut hlyduger j øllum greinum. Enn huerium sm̄ þier fyrergiefit nockut/ þeim fyrergief eg og. Þui eg eirnen/ ef eg fyrergief nockrum eitthuad/ þad fyrergief eg ydar uegna j Christi ſtad/ suo ad vier verdū eigi tælder af Andſkotanum/ Þuiad oſſ er eigi ouitanligt huad hñ hefur j ſkapi. **C**

Titus]

Enn þa er eg kom til Troada ad predika Chriſtz Euangelium/ og mier voru Dyr vpplok nar j DROTTNI/ hafda eg eigi huild j minum Anda/ þad eg fañ ecki Titū miñ Brodr/ helldr giørde eg minn ſkilnad vidur þa/ og for burt j Macedoniam. Enn Gude ſie þacker/ sa alla tima giefur Siguren j Christo/ og fyrer oſſ opinberar jlming ſinnar kynningar j øllum ſtøttum. Þuiad vier erum Gude god jlming j Christo/ bæde a medal þra sm̄ hialpaſt/ og medal þra sm̄ fortapader verda/ Þeſſum Jlmur Daudans til Dauda/ eñ hinum Jlmr Lifſins til Lijfs. Og huer er hæfiligr tl þſſa? Þuiad vier erum ecki so sm̄ marger adrer/ þr ed Gudz ord selia/ Helldr suo sm̄ af ſkiærleika/ z so ē af Gude/ tølū vier/ fyrer Gudz auglite j Christo. **D**

# III.

Tökum vier enn aptur til ad hæla ſialfum oſſ? Eda þurfu vier lika so ē ad nockrer/ Holsbrefanna til ydar/ edur hols Brefin af ydur? Þier erut vort Bref ſkrifad/ j vorum hiørtum/ sm̄ audkient og leſit verdr af øllum møñum/ þier sm̄ augliosir erut vordner/ þad þier erut Bref Chriſti/ tilreidder fyrer Predikunar embætte/ og af oſſ ſkrifader/ eigi medr Bleke/ helldr medr Anda Gudz lifāda/ Eigi a Steinſpiolldum/ helldur a holldligum ſpiølldum hiartans. Enn ſlijkt Trauſt høfum vier fyrer Chriſtum til Gudz/ eigi suo þad vier ſieum af ſialfum oſſ neyter nockut at hugleida/ so sm̄ af ſialfum oſſ til/ Helldr ef vier erum nockut neyter/ þa er þad af Gude/ sa at oſſ giørde neyta/ fram ad flytia Embætte hinns nyia Teſtamentis/ eigi Bokſtaffsins helldr Andans. Þuiad Bokſtafuren deyd' eñ Anden lijfgar. **A** **B**

Exo. 36.

Enn fyrſt þad embætte sm̄ fyrer Bokſtafen deyder/ z a Steinum er grafit hafde biartleik/ suo ad Jſraels syner gatu ei litid j Aſionu Moyſi/ fyrer biartleika saker hñs Andlitz/ ē þo tekr enda/ Huernen ſkyllde þa ecki myklu meir þ Embætte sm̄ Andan gefur biartleik hafa? Þui

fyrſt

fyrst þ Embædte sm̄ Fyrerdæmingina bodar hefur birte/ Myklu framar hefur þa þ Embætte er Riettlætid bodar/yfergnæfanligan biartleik. Þuiad j suman mata þ sm̄ biart var/þa er fyrer ongua birte halldanda j giegn þssare yfergnæfanligre birte. Þui fyrst þ hafde birte sm̄ enda tekur/myklu framar mun þ hafa birte sm̄ stødugt blijfur.

D Af þui vier høfum nu slijka von/þa erum vier diarfer j nog ⁊ giørum eigi so/sm̄ Moyses giørde/huer ed Fortialld heingde fyrer sina Asian/so ad Israels syner feingu eigi lited ending þss er enda tok/Nelldur eru þra Nugskot forblindut. Þuiat allt til þssa dags blijfur þad sama Fortialld til lukt/yfer þui gamla Testam̄to/þann tijd sm̄ þr lesa þ/huert ad fyrer Christum tekr enda. Þuiad enn allt til þssa dags/þa Moyses verdur lesiñ/heingr þ Fortialld fyrer þra hiørtū. Eñ ef þr snerust til DROTTINS/so yrdi þ Fortialld j burtu tekit/Þuiat DROTTIN er Ande. Enn huar Ande DROTTINS er/þar er Frelsi. Eñ nu skodū vier aller birte DROTTINS/ so s̄ j speigle medr ohuldre Asian/⁊ vier verdum so j þrre samre mynd vppbirter/fra eiñre birte til añarar/so s̄ af DROTTNI/huer ad eiñ Ande er

## IIII.

A HVar fyrer a medan vier høfum nu suoddan Embætte/ suo sm̄ ad vier høfum Myskūseme til ødlast/ Þa tregūnst vier ecki/ Nelldr afseigum vier eirnen heimugligar [a] skamer/⁊ førum eigi mz flatskap/forblendum ⁊ ecke Gudz ord/helldur mz opinberum sanníndum/og audsynum oss hægan vid allar Samuiskur manna fyrer Gude.

Er nu vort Euangelium hulit/þa er þ hulit j þm sm̄ Forkapader verda/j huerium ad [b] Gud þssarar Veralldar/ hefur forblindat Nugskot vantruadra/suo þm skijne eigi vppbirting þssa Euangelij Christz Dyrdar/huert ad er Gudz jmynd. Þuiad vier predi-

B kum ecki sialfsa oss/helldr Jesum Christum/þad hñ sie DROTTIN/Eñ vier ydrer þion Jesus vegna. Þuiad sa Gud er Liosinu baud vr Myrkrinu ad skina/hñ hefur Birtuna gefid j vor hiørtu/til vppbirtingar og vidurkienningar Gudz biartleika/j Andlite Christi Jesu.

Enn þeñan Tesaur høfum vier j Jardligum kerum/ so ad sa yfergnæfanlige Kraptr sie Gudz/og eigi af oss. Alla vega lidum vier Nrygdaner/Enn vier hryggiunst þo eigi. Oss veiter torfuellt/Enn vier øruilnunst eigi. Vier lidum offokn/enn vier verdum eigi fyrerlátner.

C Vier verdum nidurþrycker/ enn vier fyrerførunst eigi/ Og ætijd berum vier med oss deyding DROTTINS Jesu a vorū Likama/So ad eiñen ⁊ þ Lijf DROTTINS Jesu open skart verde a vorum Likama.

Þuiat vier sm̄ lifū/verdum jafnan j Dauda sellder Jesus vegna/So at eirnen Lijf Jesu opinskart verde a voru daudligu Nollde. Fyrer þui verkar nu Dauden j oss eñ Lijfit j ydr. Eñ a medan þad vier høfum þañ sama Anda(epter þui ad skrifat er)Eg trude og fyrer þat tala

D eg/Og vier truū/fyrer þui tølum vier eirnen/ og vitum þad at sa sm̄ DROTTIN Jesum hefur vppuakit/at hñ mune oss ⁊ vppuekia fyrer Jesum/⁊ mun skicka oss þar medr ydr/Þuiad allt þta skier ydar vegna/so at su yfergnæfanliga Nad/fyrer margra þackargiørd/ vegsame Gud rikugligana. Fyrer þui letiunst vier ecki/ helldur þott þ vor ytre madur fordiarfest/þa mun þo sa hiñ jnnre dag fra deige endurnyast. Þuiat vor Nrygd/sm̄ stundlig og liett er/ vtuegar eina eilijfa ⁊ yfer allan mata myckla Dyrd/oss/ er ei alijtū hid syneliga/helldr a hid osyneliga. Þuiad huad syneligt er/þ er stundligt/enn huad osyneligt er/ þ er eilijft.

[a] (Skamer) Hñ stingr þa þeski Postula/ huerier þyrer mōnunum lifdu heilagliga/eñ voru iñra fuller Ohreinleika

[b] (Gud) þessarar Veralldar Gud er Diøfullinn og høfdinge Þuiad hñ þionar honum og er wnder honum

trúarikar Psal. 116

## V.

A ÞVi vier vitum/þott vort Jardneska hws þessarar byggingar verde nidurbrotid/þad at vier høfum bygging af Gude vppbygda/ Nws/ eigi mz høndum giørt/þ æfinligt er a Nimnū/ Og þar epter forleinger oss eirnen/ epter vorre jbygging s̄ er af Nimne/girnandist heñe ad yferklædast/So/ad vier fiñunst klædder/og eigi nakter. Þuiad medan wier erum j þssu Nreysi/þa forleinger oss og erum þyngder/af þui vier villdum fegner eigi nackter/helldr yf

B erklædder werda/vppa þ hid daudliga burt suelgist/af Lifinu. Enn hñ s̄ oss byr til þss hins sama/er sa Gud/s̄ oss gefit hefur Pantin Andarins.

Enn jafnan þa erum wier mz godum huga/og witum þ/ a mzan wier byggium j þessum Likama/ þa erum vier j fiarlægd fra DROTTNI. Þui wier gøngum j Truñe og ecki j

aug.

augsion. Enn vier erum med godum huga/ og høfum myklu meiri lyst til ad vera fiarlæg er af Likamanum/og nalæger hia DROTTNI. Fyrer þui kostgiæfum vier og eirnen/ huort vier erum heima nalæger/eda j fraueru fiarlæger/ þad vier þocknust honū. Þuiad vier hliotum aller at opinberast fyrer Domstole Christz/Vppa þad/at huer eirn ødlist þ͛ a sinum Likama/epter þui hn̄ hefr athafst/sie þ͛ gott eda jllt.

E

Þuiat vier vitum þ͛ DROTTIN er ottande/þa førū vier j hægd ad vid Lyden/eñ Gudi erum vier opinberer. Eg vona og eirnen þ͛ vier sieum og j ydrum samuitskum opinberer/ suo vier lofum eigi oss sialfa at nyiu/ Nelldur þ͛ vier gefum ydur tilefne at hrosa af oss/Vppa þ͛ þier hafid nockru ad hrosa j mote þm/sm̄ hrosa sier eprer yferlitum / og ecki eprer Hiartanu.

Þui/eru vier høstuger/so eru vier þ͛ Gude/eru vier giæfer/þa eru vier ydur giæfer/ Þuiat Christz Kiærleike þuingar oss. Af þui vier hølldum þat þar fyrer/fyrst at eirn hefur fyrer alla dait/þa sie þr aller dauder/Og þui hefur hn̄ fyrer alla dait/so at þr s̄ lifa/life eȳ sialfū sier hier epter/ hellðr hm̄ s̄ fyrer þa hefur dait/⁊ vppaptur risiñ er.

D

Galat. 6

Þar fyrer kieñum vier nu hier epter onguan epter holldinu. Þott at vier høfū eirnen kient Christum epter Holldenu/þa keñu vier hn̄ þo nu so eigi leingr. Af þui/er nockur j Christo/þa er hn̄ ny skiepna. Hid gamla er vmlidit. Siaet : Allt er þ͛ nytt vordit. Eñ allt þ͛ af Gude/hu̇ oss forlijkte vid sialfan sig/fyrer Jesū Christū/ ⁊ giefit hefr oss þat Embætte sm̄ Forlijkunina predikar. Þuiat Gud var j Christo/ ⁊ forlijkte Verølldina vid sialfan sig/tilreiknadi henne eigi sinar Synder/⁊ hefur vppreist vor a medal ordit af Forlikuniñe.

So eru vier nu sendibod af Christz hálfu/Þuiat Gud amiñer fyrer oss. Þar fyrer bidium vier ydr fyrer Christum/ Latid forlijka ydur vid Gud. Þui hn̄ hefur þañ sm̄ af ongre Synd visse/fyrer oss at Synd giørt/Vppa þ͛ wier yrdum j hm̄ þ͛ Riettlæte/sm̄ fyrer Gude duger.

# VI.

Esa. 43.

A

ENN vier aminnum ydr/sm̄ mꝫhialpara/þ͛ þier mꝫtakit ecki Gudz Nad til onytis. Þui hañ seiger/ J þagan tima heyrda eg þig/⁊ a Deigi hialprædisins hialpadi eg þier/Siaet Nu er sa þægelige tijme/nu er Dagr hialprædesins. Latum oss þui gefa onguū hindran/vppa þ͛ vort embætte verde ecki lastat/ Nelldr augsynum oss sialfa j øllum hlutum/so s̄ Gudz Þienara:

B

J mykille Þolinmæde/j Narmkuælum/j Naskasemdum/j Þyngslū/j Nwdstrokum/j Fiøtrum/j Vpphlaupum/j Erfide/j Vøku/j Føstu/j Hreinlijfe/j Vidurkieñingu/ j Bidlundargiede/j Noguære/j helgū Anda/j Falslausum Kiærleika/j Sañleiksins orde/j Gudz Krapte/ fyrer Herklæde Riettlætisins/til Hægre ⁊ Vinstre handar/Fyrer Vegsemd ⁊ Vansemd/fyrer Vanrykte ⁊ Gott rykte/ So s̄ Falsarar/ ⁊ þo Sañarliger/so s̄ Okuñiger/⁊ þo Kuñuger/lijka so sem þr ed deyia/⁊ siaet : Þat vier lifum/So sem hegnder/⁊ eigi lijflatner/so s̄ Syrgendur/þo jafnan glader/so sm̄ volader/enn þo þr ed marga audga/lijka s̄ þr ed eckert hafa/og þo eignast alla hlute.

C

O þier j Corintho/vor muñur hefur sig opnad til ydar/vort hiarta er glatt/ Vorra vegna þurfe þier ecki tuister vera/Eñ þ͛ þier erut tuister/ þ͛ giøre eg af hiartans meiningu. Eg tala vid ydur/ so s̄ vid Børn min/ at þier hegdet ydr og eirnen vidr mig/⁊ sieut lika glader.

D

Togit ecki Okit medur Vantruudum. Þuiad hueria hluttøku hefur Riettlætid mꝫ Ranglætinu? Eda huert samlag hefur Liosit vid Myrkurin? Eda hueria samteingd hefur Christur vid Belial? Eda huørt hlutskipte hefur truadr mꝫ vantruudum? Hueria samliking hefur Gudz Musteri vid Skwrgoda hws? Enn þier erut Mustere Gudz lifanda/epter þui s̄ Gud seiger/Eg mun byggia j þm/og ganga þra a medal/Eg mun og vera þra Gud/og þr skulu minn lydr vera. Þar fyrer gangit vt fra þm/⁊ fra skiliet ydr/seiger DROTTIN/⁊ snertid ecki þ͛ oklart er/Þa mun eg mꝫtaka ydr/⁊ vera ydar Fader/⁊ þier skulut vera miner Syner ⁊ dætur/seiger DROTTIN Almattigr.

Leui. 26.
Esa. 52.

# VII.

A

AMedan vier høfum nu þuilijk Fyrerheit Kiærustu Viner/ þa førum til ⁊ hreinsū oss af allre saurgan Holldsins og Andans/og afram førū medr Helguniñe j Gudhrædslu. Nøndlit oss/ onguum giørdum vier mein/ onguum giørdu vier skada/ onguā drogu vier a talar. Þetta seige eg ecki ydr til Fordæmingar/Þuiad eg hefe adr sagt/

sagt/þad þier erut j voru hiarta/samt til at deyia mz/og at lifa mz. Gladr tala eg vid ydur/ Mørgu hrosa eg af ydr/vppfylltr em eg huggũar/ yfergnæfãligr er eg j føgnude j allre vorre hrygd. Þui þa vier komum j Macedoniã/ hafde vort holld ongua ro/ helldr j øllu lidu vier hrygd/hid ytra Barattu/hid jnnra Otta. Enn Gud sa er huggar litil magnana/hañ huggade oss fyrer til komu Titi.

Titus

B Enn eigi alleinasta fyrer hũs tilkomu/helldr eirnen fyrer þa huggan/þar hũ var af ydur mz huggadr/kunngiorande oss ydra forleinging/yduar Taar/ ydra Vãdlæting vm mig/so at eg gled mig eñ meir. Þui þat eg hrygda ydr fyrer Briefit/jdrar mig ecki. Og þott mig jdrade þat/kann vera/fyrst at eg sie at ꝥ Brief hefur at eins vm stundarsaker hrygdt ydur/so gled eg mig þo nu/ eigi af þui þad þier vrdut hrygguer/helldr ꝥ þier vrdut hrygguer til Jdranar/ Þuiad þier erut Gudliga hrygguer vordner / suo at þier feingut onguan skada af oss j neinu. Þuiat Gudlig hrygdan verkar Jdran til Sialþrædis/þa er onguan Jdrar/ Enn þssa Heims

C hrygdan verkar Dauda.

Sjact/þat/ad þier erut Gudliga hrygguer ordner/hueria alud ꝥ hefur mz ydr verkat/þar ad auk Forsuar/Heipt/Otta/Forleingian/Vandlætan Hefnd. Og j øllum hlutum/ þa hafi þier audsynt ydr/at þier erut skirer þss verks. Fyrer þui þo ad eg skrifade ydr/þa er þat ecke hũs vegna skied/sm Ranginde framde/ z ecki hũs vegna sm leid/ Helldr þss vegna/ꝥ ydar kostgiæfne vid oss opinber yrde hia ydr/fyrer Gude

D Af þui þa erum vier huggader/þad þier erut huggader. Eñ þo høfum vier yfer allt frã glatt oss meir yfer føgnude Titi/ Þuiat hũs Ande er at nyiu endurnærdr til allra ydar. Þui huad eg hefi hrosat af ydr fyrer honum/j þui verd eg ecki ouirtur/Helldr lyka so sm ad allt þad er senneliga huad eg hefe vid ydur talat/so er og eirnen vor hrosan hia Tito sannleikur orden. Og honum er af Hiarta alldungis vel til ydar/þa er hũ hugleider hlydne allra ydar/huernen þier hafet mz hrædslu z Otta hũ medtekit. Eg gled mig og/ꝥ eg ma allz godz til ydar treysta.

Titus

# VIII.

Aminning vm þañ Omnussu studning til þra þatækra j Jerusalem

A EG kũngiore ydr kiærer brædur/þa Gudz Nad/ sm giefen er þm j Macedonia/ Þuiat þra Fognudr var þa yfergnæfanligr/ þann tyd þr vrdu fyrer mørg harmkuæli reynder. Og þott at þeir være nærsta Fatæker/þa hafa þr þo rykugliga giefit j øllum einfalldleik. Þuiat epter øllu megne(þat vitna eg) z yfer megn fram voru þr sialfuiliuger/ z beiddu oss mz mørgum aminningum/þat vier mztækium þa godgiørd z samlag Naudþurftarinnar sm Heiløgũ veitist. Og eigi sm vier vonudũ/helldr gafu þr j fyrstu sialfa sig DROTTNI/ og oss epter þat/fyrer Gudz vilia saker. Þat vier hlutum at amiña Titum/epter þui hũ hafde adr vpphafit/so skyllde hũ og full enda slyka Velgiørd ydar a mille.

Spsnude

Titus

B Eñ lyka sm þier yfergnæfet j øllum greinum/j Truñe/j Ordum/j Vidurkieñinguñe/ og j allre Kostgiæfne/og j ydrum kiærleika til vor/so afreket eirnen/ꝥ þier yfergnæfit z j þessare Velgiørd. Eg seigi ecke/ sm bode eg ꝥ/ Helldr med þui ad hiner adrᵉ eru so kostgiæfner/þa reyne eg yduarn Kiærleika/huort hũ er af riettum hũga. Þui þier vitid Nad DROTTINS vors Jesu Christi/ ꝥ/ þott hũ være rykr/vard hũ þo voladr ydar vegna/Vppa ꝥ/þier yrdut fyrer hũs fatækt auduger.

C Og mitt Raad gef eg j þessu/ Þuiat þetta er ydr nytsamligt/þier sm vpp hafit byriat fyrer tolf Manudum/eigi einasta giørningen/helldr jafnuel Vilian. Þui fullkomit nu z eirnen giørningen/Vppa ꝥ/lyka sm at þar er hneigiligr hugr til vilians/so sie þar og eirnen hneiganligr hugr til giørningsins/af þui sm þier hafet til. Þui fyrst hañ er goduiliadr/þa er hũ þacknæmr/epter þui ẽ hũ hefur til/ eñ eige epter þui sm hũ hefur ecki

Eigi skier ꝥ j þa meining/þad adrer hafe huild/enn þier hrelling/Helldr at þat sie jafnt. So þione ydar gnægd þra þurft/ j þessare Hallæris tyd/vppa þat/at þra gnægd eptera þione yduare þurft/ suo ad þad verde jafnt/ sm at skrifat er/ Sa er myklu safnade/hafde eckert afgangs/ z sa er litlu safnade/hũ hafde onguan brest. Eñ Gude sie þacker/ẽ slyka fyrerhyggiu hefur giefit j hiarta Titi til ydar. Þuiat hũ mztok ad soñu þa amiñing/ Eñ mz þui hũ var so miog Kostgiæfinn/er hũ af sinum eigen vilia til ydar fariñ.

Titus

Exo. 16.

D Enn vier sendum mz honum vorn Brodr/þañ er lof hefur j Euangelio vm allar Samkũdur. Og eigi alleinasta ꝥ/ Helldr er hũ eirnen skickadur vt af Samkundunum/oss til Forunautz/

naufs/til þssarar Velgiordar/sm fyrer oss verdur samansøfnud/DROTTNI til Sæmdar/ og ydar godum vilia til afhallds/ og ad giæta þss/ at eingen mætte epter oss seigia nockut vont/slikrar audigrar hialpar vegna/sm fyrer oss verdur samandreigen/Og vakta/ad þ fære sæmeliga/Eigi alleina fyrer DROTTNI/helldr eirnen lika fyrer meñum.

So høfum vier og sent mz þm Brodur vorn/þañ vier høfum opt reynt j mørgum greinū/ þat hñ sie kostgiæfiñ/ eñ nu myklu kostgiæfnare. Og vier høfum mykit traust a ydur/ sie þ Titus vegna(sm er minn Lagsmañ og hialparmann ydar a mille)edr vegna vorra Brædra (hverier at eru Postular Samkundanna/ z Dyrdar Christz)Fyrer þui hafit j Liosi audsyning yduars Kiærleika og vorrar hrosunar vm ydr/vidur þssa/eirnen j auglite Safnadaña:

## IX.

NViat af þssare næringar biorg/sm þm Heiløgum skier/er mier ecki þørf ad skrifa ydr til vm. Þuiat eg veit yduarn godan vilia/ huar af eg hrosa/hia þm vr Macedonia/og seige/þat Achaia er/ fyrer tolf Manudum reidu buen Og ydart epterdæme hefur marga til knuit. Eñ eg hefe af þui þssa Brædur hingat sent/so þ vor hrosan vt af ydr yrde ei at ongu/j þre grein/Og þier sieut reidubwner/lika so sm at eg hefi sagt vt af ydr. So at/ef þr vr Macedonia kiæmu medr mier/ z fynde ydur ouidurbuna/suo vier(eg vil eigi seigia þier)verdū skamader/mz slikre hrosan.

A

B

Enn eg hefi alitid þ fyrer naudsyn/at amiña Brædurna/þat þr fære fyrst til ydar/at reidubwa þssa adr lofada Blezan/þ hun sie til reidu/So/þ sie ein Blezan/eñ eingen a Agirne. Enn eg seigi þ/Huer hñ saer sparliga/sa mun sparliga vppskiera/ z huer hñ saer nidr j Blezaninne/sa mun og eirnen j Blezan vppskiera. Huer eirn epter sinu hugbodi/eigi medr ouilia edr kwgan. Þuiat hyrañ giafara hefr Gud sier kiæran.

(Agirnen) Nisa tyme ...

Þui Gud er mattugr at giora/þat allsħattud Nad sie gnoglig medal ydar/so at þier hafit alls gnægd j ollum hlutum/ z yfergnæfit j ollum godum verkum/So sm at skrifat er/Hañ vtdreifde z gaf Fatækum/Hñs Riettlæte blyfur vm allder allda(enn sa er Sædit gefr Kornsædaranum/Sa mun z giefa Braudit til Fædsluñar/hñ mun z margfallda yduart Sæde/og aukast lata friofgan yduars riettlætis)þ þier sieut auduger j ollum hlutū/mz allan einfalldleik/s fyrer oss verkar þackargiord Gude

C

Psal. 21.

Þuiat su næringar stod/þssarar biargar/vppfyller ei alleinasta þa naudþurft Heilagra/ Helldr yfergnæfer eirnen j þui/þ marger þacka Gude/fyrer þssa vora trua þionustu/ z prijsa Gud/yfer yduare hlydugre vidurkienningu Christz Gudzspialla/og yfer yduare einfalldligre hialparstod til þra/ z til allra/og yfer þra bænum fyrer ydr/Hueria at forleinger epter ydur/ fyrer saker þrar yfergnæfanligrar Gudz Nadar/j ydr. Eñ Gude sie þacker fyrer sina vomrædeliga Gæfu.

D

## X.

ENN eg Pall/ beide ydr/ fyrer godgirnd z hoguære Christz/sa s at j nalægd er lagr ydar a mille/ enn j fiarska em eg diarfur vid ydur. Þui bid eg ydur/ þat mier sie ecki þørf nalægum/diarfliga at høndla/og þa diørfung frame hafa/sm mier verdr til løgd vidr suma/þr oss akta/s geingu vier epter holldsins plagsid. Þui þott vier gøngum j Holldinu/þa stridum vier þo eigi epter holldligum plagsid. Þuiad Herskrwde vors Riddaraskapar er eigi holldligr/helldr mattugr fyrer Gude/til nidurbrots þrar stadfestu/huar mz vier nidurbriotū þañ asetning/ z alla hæd/s at sig vpphefur j giegn Gudz Vidurkieñingu/ z at Herfange tokū alla skynsemd/vnder Christz hlydne/Og erum reidubwner at hefna allrar ohlydne/þa er ydar hlydne er vppfylld. Dæme þier epter alite.

A

I þssum þremur Cap. hefr S. Pall ad skeppa mz þa Fals Postula

B

Treyster nockr þar vppa/þat hñ sie Christz/þa þeinke sa eirnen þta/hia sialfum sier/þ/ lijka sm hñ heyrer Christe til/so heyrū vier eirnen Christe til. Og þo at eg hrokade mier nockut framar vt af þre vorre magt/sm DROTTIN hefur oss giefit/ydr til betrunar/ z ecke til fordiørfunar/þa mūda eg þo ecke til skamar verda (Eñ þta seigi eg)vppa þ þier latit ydr ei þikia/sm hefda eg viliat skielfa ydr mz Brefum. Þuiat þau Brefen(seigia þr)eru þung og sterk/Enn nalægd likamans er veyk/og malit er forsmanarligt. Huer þsskenar er/ hann

C

1 Cor. 13

þeinke/

og giørdu ongua Yferbot fyre siin verk

Og hinn siøtte Eingell hellte vt sinne Skælu i þad mykla Vatned Euphrates/og Vatned þurkadest/suo ad tilreiddur yrde Vegur Konunganna/vt af vppgøngu Solarinnar. Og eg sa vt af Munne Drekañs/ ⁊ vt af Muñe Dyrsiñs ⁊ vt af Muñe þess falska Spamañs ganga þria ohreina Anda/lijka a Pøddum. Og þad eru Andar Diøfulsiñs/ þeir giøra Teikn/og ganga vt til Konunga Jardariñar/⁊ vm alla Heims kringlu ad samansafna þm til Orustu/vppa þañ mykla Dag Gudz Almættugs. Sia/Eg kiem sem Þiofur/Sæll er sa sem vaker og vardueiter siin Klæde/suo ad hũ gange eige Nakeñ/ so ad ei siaest hũs Osome. Og hũ samansafnade þeim i þañ stad sem kallast a Ebresku b Harmageddon.

C

a (Pøddur) Eru hr Eyrnatudarar/sm hia Høfdingium hræsna/og hvætta i giegn Euangelio/enn vitietta þo ecket

Og sa siøunde Eingell hellte vt sinne Skælu i Vedred/Og þar gieck vt Rodd af Himne vr Stolnum/sem sagde/Þad er skied. Og þar vrdu Radder og Reidarþrumur/og Eldingar ⁊ þar vard mykell Jardskialfte/ huilijkur ad alldrei vard vpp fra þui at Meñ hafa a Jordu vered/ þuilijkur Jardskialfte so mykell. Og vt af þeirre hinne myklu Borg vrdu þriar Deillder/og Borger Heidinna Þioda hrøpudu. Og hin mykla Babilon vard hugleidd fyrer Gude/ henne ad giefa Kaleik Vijnsiñs hañs Grimdar Reide. Og allar Eyar flydu/⁊ eingen Fiøll vrdu fũden/Og Hagl stort sem Pund fiell af Himne a Folked/⁊ Meñerner løstudu Gud fyrer saker Plægu Haglsiñs/ Þuiad þess Plæga var næsta mykel.

D

b (Harmageddon) A Norrænu þortapadur Bardagamadr

# XVII.

Hier framsetur hũ þa Romuersku Kirkiu i sinne riettre Mynd/huer ed fordæmast skal. Og þetta er wtskyring hins xiij. Cap.

HAr kom og eirn af siø Einglunum s̃ høfdu siø Skælernar/ kalade vid mig/ og sagde til miin/ Kom/ Eg man syna þier Dom hiñar myklu Horkonu/sem a mørgum Vøtnum situr/medr huerre Horaner drygt hafa Konungar Jardarinnar og þeir sem a Jordu bwa eru druckner ordner af hennar Hormar Vijne. Og hũ flutte mig i Anda a Eydemørk. Og eg sa þa Konu sitia a fagur raudu Dyre/fullu af Nøfnum Hædungarinnar/hafande siø Nøfud og tiu Horn. Og Konan var klædd Purpura ⁊ Pelle Raudu/⁊ vmprydd Gulle ⁊ Gimsteinum og Perlum/ ⁊ hafde i Hendiñe Gullkier/fullt suiuirdingar ⁊ ohreininda hñar Horanar/ Og i heñar Eñe skrifut Nøfn a Leyndardomsins/ Hin mykla Babilon/Moder Frillulifnadañ ⁊ allrar Suiuirdu a Jordu. Og eg sa þa Konu druckna af Blode Heilagra/og af Blode Vijslaruotta Jesu. Og eg vndradest miøg þa eg sa hana.

A

B

a (Leyndur) Þad er/ su hin undliga mykla Babilon

Og Eingelleñ sagde til miin/Huar fyrer vndrast þu/ Eg man seigia þier Leyndanndom Konuñar/og Dyrsiñs þess sem hana ber og hefur siø Høfud/og tiu Horn. Þad b Dyr s̃ þu hefur sied/ þat var/ ⁊ er eige/og mun vppaptur koma af Vnderdiupenu/og mun suo fara i Fyrerdæmningena/Og þr sem a Jordu bwa/huerra Nøfn eige eru skrifud a Lijfs Bokiñe/ i fra Vpphafe Veralldar/ munu vndrast nær þeir sia Dyred/þad er var og eige er/ huert ad þo er. Og hier er þad hugskot huert Speke hefur.

b (Dyr) Þad er/Þad Romuerska Rijkid/og er þo ecke þad/þuiad þad er ecke allt/ helldur er þad epter sitt Fall vpp aptur reist af Pauanum

Þau siø Høfuden eru siø Fiøll a huerium Konan situr/ ⁊ þad eru siø Konungar/Fiñ eru fallner/ ⁊ eirn er enn/⁊ sa añar er ei eñ komeñ/ ⁊ nær hũ kiemur hlytur hũ stuttann tijma at blijfa. Og þad Dyred sem var og er eige/þad er sa enn attande/og er vt af þeim siø/og fer i Fordæmingena. Og þau tiu Horn þu hefur sied/þad eru tiu Konungar/ þeir ed Rijked eñ eige medtoku/ eñ munu vm stutta stund lijka siñ Konungar medtaka Magt mz Dyrenu. Þesser hafa þad eitt Ræd ad þeir munu giefa siñ Krapt ⁊ Magt Dyrenu/þeir munu ⁊ strijda vid Lambed/og Lambed mun þa yferuinna/þuiad þad er DROTTIN Drottnanna ⁊ Konungur Konunganna/ ⁊ med þui þeir sem kallader og vtualder og truader eru.

C

D

Og hũ sagde til miin/Vøtnen þau þu hefr sied/þar ed Horkonan situr a/ eru Folk ⁊ Lyder/og Heidnar Þioder og Tungumæl. Og þau tiu Hornen sem þu hefur sied a Dyrenu/ þau munu hata Horkonuna og munu hana sneyda og nakta giøra / og munu hennar Holld eta og hana med Ellde brenna. Þuiad Gud gaf þad i þeirra Hiørtu ad giøra huad hm̃ þocknast/ad þeir giøre eirn vilia/og ad þeir giefe Dyrenu sitt Rijke/þangad til ad fullkomnad yrde Gudz Ord. Og Konan sem þu hefur sied er hin mykla Borg/huer sitt Rijke hefur yfer Konungum Jardariñar.

# XVIII.

Og

A EFtir þ sa eg añañ Eingel ofan fara af Himne/ sa hafde mykla Magt/ og Jorden vpplystest af hñs Birte. Og hñ kallade af Vallde mz hærre Røddu/ og sagde/ Hun er fallen/ hũ er fallen/ Babilon hin mikla/ ⁊ er Diøflañа Heimele orden/ og Hirdsla alls Ohreins Anda/ ⁊ Hirdsla alls ohreins og opacknæmeligs Fugls. Þuiad af Reideñar Vijne heñar Horanar hafa allar Þioder drucked/ og Konungar Jardariñar hafa mz henne Horaner drygt/ ⁊ hennar Kaupmeñ eru audiger ordner af heñar myklum Munadsemdum.

Og eg heyrda adra Rødd af Himne seigia/ Vtganged af heñe mitt Folk/ so ad þier verded eige hluttakarar heñar Synda/ vppa þ þier medtaked eige nockut af heñar Plægũ. Þui ad hennar Synder næ allt til Himins/ og DROTTEN hugleider hennar Ranglæte. Gialldeð heñe suo sem hun hefur gollded ydur/ og tuefallded heñe þad tuefallt aptur epter heñar Verkum. Og med huerium Bikar þad hun byrlade ydr/ byrled henne þar i tuefallt aptur. Hue miked sem þad hun dyrkade sig og i sijnu Munadlijfe var/ so miked jñbyrled heñe Kualer og Ecka/ Þuiad hun seiger i sijnu Hiarta/ Eg sit og em Drottning/ og eige mun eg Eckia verda/ og onguañ Trega mun eg lijta. Þar fyrer munu heñar Plægr a einũ Deige koma/ Daude/ Harmur/ og Hungur/ og med Ellde mun hun brend verda/ Þuiad øflugur er DROTTIN Gud/ sa er hana mun dæma

B

Og Konungar Jardarinnar þeir sem medur henne hafa Horaner drygt/ ⁊ i Munadsemd lifad/ munu græta hana/ og kueina sier yfer heñe/ nær þeir sia Reyk af heñar Bruna/ þeir i fiarlægd standa fyrer hrædslu saker hennar Kuala/ og seigia/ Vei wei Babilon hin mykla Borg/ su hin sterka Borg/ a einnre stundu er komeñ heñar Domur. Og Kaupmeñ Jardar munu græta ⁊ harma yfer henne/ þt þra Kaupeyre man eingeñ kaupa meir/ kaupeyre Gulls og Silfurs og Gymsteina/ og Perlur/ og Silke/ og Purpura ⁊ Skarlat/ ⁊ allshattadañ dyrendis Vid/ og allshattud Kier af Filabeinum/ og allra handa Kier af dyrmætum Vide/ ⁊ af Eire ⁊ af Jarne/ ⁊ Marmara/ ⁊ Jurter/ ⁊ Smyrsl/ Reykelse ⁊ Vijn ⁊ Vidsmiør/ Similiu ⁊ Hueite/ Kuikfie ⁊ Saude/ Hesta ⁊ Vagna/ og Likame ⁊ Sæler Mannaña.

C

Og þad Alldine þar þijn Sæla hafde girnd a er fra þier viked/ ⁊ allt huad feitt ⁊ frialsligt var þad er fra þier viked/ ⁊ þu munt þad eige leingur fiña. Kaupmeñ þessarar Vøru/ huerier af heñe audiger ordner eru/ munu fiarlægt standa af Hrædslu heñar Kuala/ grætande og harmande/ og seigia/ Vei/ wei/ hin mykla Borg/ sem med Silke/ Purpura ⁊ Skarlate var klædd/ og med Gulle var fægud/ ⁊ Gimsteinum og Perlum/ Þuiad a eirne stundu er slijkur Rijkdomur ad ongu ordeñ.

Og aller Skipstiornarmenn/ og allur sa Skare sem a Skipum handtierar/ og Skipuertar þeir a Sionum handtiera stodu i fiarska/ ⁊ kølludu þa þeir sau Reykeñ af heñar Bruna/ og søgdu/ Huer er lijkur þessare hiñe myklu Borg? Og þeir jusu Molldu yfer Høfud sier/ og kølludu grætande og harmande/ og søgdu/ Vei/ wei/ su hin mykla Borg/ i huerre audiger eru ordner aller þeir sem Skipen høfdu a Sionum med heñar Vøru/ þuiad i eirne stundu er hun i Eydeløgd.

D

Gled þig yfer heñe Himen/ ⁊ þier heilager/ Postular og Spameñ/ Þuiad Gud hefur yduarn Dom a heñe dæmt. Og eirn øflugur Eingell tok vpp Stein storañ sm̃ Kuarnarstein/ ⁊ kastade honum i Sioeñ/ ⁊ sagde/ So mun mz einum Gny vtkastast hin mykla Babilon/ og eige meir funden verda/ ⁊ Søngmanna Rødd/ ⁊ Hørpuslattara/ ⁊ þeirra i Pijpur blæsa/ og i Lwdra þeyta/ skal eige meir heyrast i þier/ ⁊ eingeñ Embættis Madur/ huers sem hellst Embættis hñ er skal meir i þier funden verda/ Kuernar hliod skal eige meir i þier heyrt verda/ og Rødd Brwdgumañs ⁊ Brwdurinar skal eige meir i þier heyrd verda. Þui þijner Kaupmeñ voru Høfdingiar a Jordu/ Þuiad fyrer þijna Fiølkinge foru villar allar Þioder/ og Bloded Spamañaña og Heilagra er i heñe funded/ ⁊ allra þeirra sem a Jordu eru i hel slegner.

## XIX.

A EPter þta heyrda eg mykla Rødd mijkels fiølda a Himne/ seigiande/ Haleluia. Heilsa og Heidur/ Dyrd ⁊ Kraptur sie Gude vorum DROTTNI/ þuiad sañer ⁊ riettuijser eru hñs Domar/ þad hñ fordæmde hina myklu Horkonu/ sem Jordena medur siñe Horan fordiarfade/ og Blodz siña Þiona af heñar hende hefur hñ hefnt. Og

þeir søgdu enn aptur i añat siñ/Haleluia. Og hennar Reykur gieck vpp Eilijfliga. Og þr fiorer og tuttugu Wlldungar og þau fiøgur Dyren fiellu fram̃ ⁊ tilbædu Gud huer ed a Stolnum situr/og søgdu/Amen/Haleluia. Og ein Rødd gieck vt af Stolnum(sem sagde)Lofed vorn Gud aller hñs Þionar/og þeir hñ ottast/bæde smæer og storer.

Og eg heyrda Rødd mijkels skara/ og so sem nyd mikilla Vatna/og suo sem Rødd megnrar Reidarþrumu/þeir søgdu/Haleluia. Þuiad Gud Almættigur hefur Rijked vnder sig lagt/Føgnum ⁊ verum glader/og giefum honum Dyrd/þuiad Brwdkaup Lambsiñs er komed/og þess Nwsfru hefur sig tilreitt. Og henne vard giefed þad hun skyllde vmklæda sig med hreinu og skinande Silke(enn þad Silke eru Riettlætingar Heilagra)og hñ sagde til mijn/ Sæler eru þeir sem til Kuelldmæltijdar Lambsiñs eru kallader. Og hñ sagde til mijn/Þetta eru sañarlig Gudz Ord. Og eg fiell nidur fyrer honum til Fota hñs/ad eg tilbæde hñ. Og hñ sagde til mijn/Sia til/at þu giør þad ei/Eg em þiñ Sampion og þinna Brædra/og þeirra sem hafa Jesu Vitnisburd/Tilbid þu Gud(eñ Vitnisburdur Jesu er Ande Spadomsinns)

Og eg sa Himineñ opeñ/Og sia/ad huijtur Hestur/⁊ sa sem þar sat a/hiet Trwr ⁊ Sañarligur/og dæmer og strijder medur Riettlæte. Og hñs Augu eru sem Ellds logie/og a hñs Høfde margar Koronur/og hñ hafde Nafn skrifad þad eingeñ þeckte nema sialfur hñ/⁊ var klæddur þui Klæde sem mꝫ Blode var dreift/og hñs Nafn hiet Gudz Ord. Og hm̃ epterfylgde allur Her sa a Himne er/a huijtum Hestum/klædder i huitu og hreinu Silke. Og af hñs Munne framgieck tuieggiad Suerd/þad hñ slæge þar mꝫ Heidnar Þioder/og hañ mun stiorna þeim medr Jarnuende. Og hñ fottredr þrwguna Vijnsins Brædeñar ⁊ Reide Gudz Almættugs/og hefr Nafn skrifad a sijnu Fate/a sijnu Lendu/so lætanda/Kongur allra Konga ⁊ DROTTIN allra Drottna.

*Gudz Ord winnur Sigurenn i giegn verndurum Pauans og þar sto dar eingen Magt i mote*

Og eg sa eirn Eingel standa i Solunne/og hñ kallade hærre Rødd ⁊ sagde til allra Fugla sem vnder Himne fliuga/Komed og samansafned ydur til Kuellduerdar hins mykla Gudz/ad þier eted Holld Konungaña/og Lands stiornaraña/og Holld øflugra/og Hestaña/⁊ þeirra sem þar vppa sitia/ og Holld allra Frelsingia/ og Þrælanna bæde smærra ⁊ storra. Og eg sa Dyred og Konunga Jardarinnar/og þeirra Lid samansafnad/ til ad hallda Strijd vid þañ sem a Hestenum sat og vid hñs Her.

Og Dyred vard høndlad/og med þui sa falske Spamadur sm̃ Teiknen giørde fyrer þui/af huerium hñ villte þa sem audkienningar merke Dyrsiñs medtoku/⁊ þa er Mynd Dyrsiñs tilbædu. Þesser bæder tueir vrdu lifande fleygder i Elldsiñs Dijke/þad med Breñesteine logar/Og þeir adrer vrdu i hel slegner med Suerde þess sem a Hestenum sat/þad vt af hanns Munne gieck/og aller Fuglar vrdu sadder af þeirra Hollde.

## XX.

OG eg sa Eingel ofan stijga af Himne/sa hafde Lyckel Vnderdiupsiñs/⁊ mykla Hlecke i sinne Hende. Og hañ høndlade Drekañ hiñ gamla Høggorm huer ad er Diøfullenn og Andskoteñ/og batt hann vm Þusund Aar/og fleygde honum i Vnderdiuped/og jnneluckte hñ og jnnciglade þar ofan yfer/ad hñ skyllde eige meir villa Heidnar Þioder/þangad til ad vt endut yrde Þusund [a] Aar/og epter þad skyllde hañ laus verda vm stutta stund.

Og eg sa Stola/og þeir sætu a þeim/og þeim vard Domur giefenn/og þeirra Sæler sm̃ afhøfdader voru vegna Vitnisburdarins Jesu/og fyrer Guds Ordz saker / og þeir sem ecke høfdu tilbeded Dyred/nie þess Mynd/og þeir eige medteked høfdu audkieñingar merke i sijn Enne/edur a sijnar Hendur/þesser lifdu og rijktu med Christo Þusund Aara. Enn hiner adrer daudu endurlifnudu ecke/þar til ad Þusund ær fullkomnudust. Þetta er hin fyrsta Vpprisa/Sæll er sa og Heilagur sm̃ hlutdeilld hefur a hiñe fyrstu Vpprisu/Yfer þuilijkum hefur sa añar Daude ongua magt/helldur verda þeir Kiennemenn Gudz og Christi/og rijkia mꝫ hm̃ Þusund Aara.

Og nær þau Þusund Aar eru fullkomnud/þa man sa Andskote laus verda af sijnu Fiøtre/og mun vtganga at villa hina Heidnu/sem ad eru i fiorum ættum Jardarinnar [b] Gog og Magog/ad samansafna þeim til Barættu/huerra tala er sem Siafar Sandur. Og þeir vpp

*[a] Þesse Þusund Aar skulu begiast þa þesse Bok skrifud war. Þuiad Tyrkeñ kom þa ed fyrsta epter Þusund ær/þss a mille woru fr Christnu/og rijktu/Displenum ad þakarlausu. Eñ nu will Tyrkeñ hialpa Pauanum ad wpp ræta þa Christnu/mꝫ þui ecke er añarstadar neitt fulltyng*

*[b] Þetta eru Tyrkiar/komner af þeim Tar-*

vppstigu yfer Vÿdd Jardar/ og vmkrÿngdu Nerbwder Neilagra/ z hina elskuliga Borg. Og Elldur kom ad ofan fra Gude af Nimnenum/ og suelgde þa. Og Diøfullenn sa þa villte vard kastadur i Dÿke Elldsiñs z Breñesteins/ þar ed Dyred z sa falske Spamadz var/ og verda kualder Dag og Nott/ vm alldur og æfe ad eilÿfu.

taris/þeir ed kallast raudu Gydingar

D Og eg sa mÿkenn Stol skÿnanda/og þañ sem þar vppa sat/ fyrer huers Auglite ad flyr Nimen og Jørd/og þeim var eingeñ Stadur fundeñ. Og eg sa hina Daudu/bæde stora z sma standa fyrer Gudz Auglite/og Bækurnar vrdu vpplæatnar/Og ønnur Bok vard opnud/ huer ad er Lÿfsiñs/ z hiner Daudu vrdu dæmder/epter þui sem skrifad er a Bokunū/ eptᵉ þra Verkum. Og Siorenn gaf fram þa daudu sem i hm̄ voru/ z Daude og Neluÿte gæfu vpp þa daudu sem i þeim voru/og þeir vrdu dæmder/huer eirn epter sÿnum Verkum. Og Daude og Neluÿte vrdu køstud i Elldsiñs Dÿke/þad er sa añar Daude. Og ef nockur fiñst eige skrifadur a Lÿfsbokinne/sa verdur kastadur i Elldsiñs Dÿke.

## XXI.

A OG eg sa nyann Nimenn og nya Jørd/ Þuiad hinn fyrste Nimenn og fyrsta Jørd forgieck/ z Sioreñ er ei meir. Og eg Johañes sa hina heiløgu Borg/ þa nyiu Jerusalem/ofanfara af Nimne fra Gude/til reidda/ suo sem prydd Brwdur sÿnum Manne. Og eg heyrde Rødd mykla af Stolnum seigia/ Sia þar Tialldbwd Gudz hia Møñum/og hñ man hia þm byggia/ Og þr munu hañs Folk vera/ og Gud sialfur medur þeim mun þeirra Gud vera. Og Gud mun þerra øll Tar af þeirra Augum/ Daudeñ mū eige meir vera/eige Narmz nie Kueinan/eda Nrygd mū meir vera/Þuiad hid fyrsta er vmlidet. Og sa vppa Stolnū sat/sag de/Sia/ eg giøre þad allt saman nytt. Og hñ sagde til mÿn/Skrifa þu/Þuiad þesse Ord eru søñ og truanlig.

Esa. 65.
2. Pet. 3.
Esa. 25.
Esa. 43.
2. Cor. 5.

Og hñ sagde til mÿn/Þad er giørt/Eg em A og O/Vpphaf og nidurlag/Eg man þyr-

B stum giefa af Brunne lifanda Vats/ fyrer ecke. Nuer ed yferuinnur/sa mun eignast allt þ og eg man hñs Gud vera/og hñ mun minn Sonur vera. Enn þeim ottafullum og Vantruudum og Suiuirduligum og Mañdræpurum/og Frillulifnadarmøñum og Tøfrurum/og Skwrgodadyrkurum/og øllum Liugurum/þeirra hlutdeilld mun vera i Dÿkenu sm̄ mz Ellde og Brennesteine logar/huert ad er sa añar Daude.

Esa. 44.

Og eirn af þeim siø Einglunum / sem hafde þær siø Skæler fullar med þær siø sÿdustu Plagur/kom ad mier/og talade vid mig/ z sagde/ Kom/ eg man syna þier Kuiñuna/ Brwdz Lambsiñs. Og hñ tok mig burt i Anda/vppa hatt og miked Fiall/og synde mier hina mykklu Borg/þa heilogu Jerusalem/ofan fara af Nimne fra Gude/hafande biartleik DROTTJNS/og heñar Lios var lÿkt hinum dyrmætasta Steine /suo sem skiær Jaspis. Og hun hafde mykla og Næfa Mwruegge/og hafde tolf Nlid/og i þeim Nlidunum tolf Eingla/ og

C Nøfn skrifud/huer ad eru tolf Kynkuÿsler Jsraels Sona. Af Austre þriu Nlid/ af Nordre þriu Nlid/af Sudre þriu Nlid/af Vestre þriu hlid. Og Mwruegger Borgariñar høfdu tolf Grunduelle/ og i þeim sømum Nøfn þeirra tolf Postula Lambsiñs.

Og sa vid mig talade hafde Gullegañ Reyr kuarda/þat hñ skyllde mæla Borgena/z heñar Nlid/og Mwruegge. Og Borgen er sett ferkøntud/Og leingd heñar er so mÿkel s̄ breidden. Og hñ mællte Borgena med Gull reyrnum vppa tolf Þusund Reñeskeida/ Leingden og breidden/og hæden heñar er lÿka jafnt/. Og hañ mællte hennar Mwruegge/Nundrad fiorar og fioruttÿge Alner/epter þess Mañs mæling sem Eingelleñ hefur. Og Smÿde hennar Mwrueggia var af Jaspis/og Borgen af skiru Gulle/lÿk skiæru Glere. Og Grunduellerner og Mwruegger Borgariñar voru prydder med allshattada Gimsteina. Niñ fyr-

144. Alna er Mvren þyckur

D ste Grunduølldur var Jaspis/sa annar Saphir/þridie Calcedonius/fiorde Smaragdus/fimte Sardonichus/siøtte Sardis/siøunde Chrisolitus/attande Berillus/Niūde Topasius/Tiunde Chrisophras/ellefte Nyacinthus/tolfte Amethyst.

Og þau tolf Nliden voru tolf Perlur/ og sier huert hlidet var af sierhuerre Perlunne / og Stræten Borgariñar voru skÿra Gull/so sm̄ giegnū skinande Gler. Og eg sa þar eckert Mustere jnne/ Þuiad DROTTJN Gud Almattugur er heñar Mustere/ og Lambed. Og Borgen þarf eige Solar nie Tungls þ þau lyse i heñe/ Þuiad Gudz biartleike vpplyser hana/og

Esa. 6.

na/ z Lios hennar er Lambed. Og þær Þioder sinn holpnar verda ganga i þui sama Liose/ z Konungar a Jordu munu jnnflytia sijna Dyrd i þa hina sømu. Og hennar Hlid verda ecke vm Dagenn aptur luckt/ þuiad þar man eingen Nott vera. Og eckert saurugt og Suiuirdeligt ne Lygn man þar jnn ganga/ Vtan þeir sem skrifader eru a Lijfs Bokinne Lambsins.

## XXII.

D

Og hann synde mier hreint Vatzfall lifande vatz/ so skiært sem Christallus/ framflioðande af Stole Gudz z Lambsins/ mitt a hennar Stræte/ Og beggiumeigen Vatsins stod Lijfsins Trie/ z þ bar tolfhættadann Auoxt/ z færde sinn Auoxt a sierhuerium Manade/ og Laufblød Triesins dugdu til Heilsubotar Heidinna Þioda. Og þar man eckert bøluanligt meir vera/ z Stoll Gudz z Lambsins mun þar jnne vera/ og hanns Þionar munu honum þiona/ og hanns Andlit sia/ og hans Nafn man i þeirra Ennum vera. Og eige mun þar Nott vera/ og eige vid þurfa nockurar Lysingar edr Lioss Solar/ Þuiad Gud DROTTIN mun sialfur lysa þeim/ z þeir munu rijkia vm Allder og ad eilijfu. — A

Esa. 6.

Og hann sagde til mijn/ Þesse Ord eru Traust og sønn. Og DROTTIN Gud heilagra Spamanna/ hefur sent sinn Eingel til ad kunngiøra sijnum Þionum/ huad snarliga hlytur ad skie. Staed/ Eg kiem snart. Sæll er sa sem vardueiter Ordenn Spadomsins i þessare Bok. Og eg em Johannes/ sem þetta sied og heyrt hefur. Og þa eg hafda þ heyrt og sied/ fiell eg fram ad tilbidia fyrer fætur Eingelsins/ þess mier synde þetta. Og hann sagde til mijn/ Giæt ad/ ad þu giør eige þetta/ Þuiad eg em þinn Samþion/ og þinna Brædra Spamannana/ og þeirra sem vardueita Ord þessarar Bokar/ Tilbid þu Gud. — B

Og hann seiger til mijn/ Innsigla ecke Ord Spadomsins i þessare Bok/ þuiad Tijmenn er i Nænd. Huer skadsamur er/ sa sie skadsamur/ huer ohreinn er/ sa sie ohreinn/ enn huer riettuijs er/ sa verde enn Riettuijsare/ og huer Heilagur er sa verde enn heilagre. Og Siadu/ Eg kiem snarliga/ og mijn Verdlaun medur mier/ ad eg gialde huerium sem einum/ epter sijnum Verkum. Eg em A og O/ vpphaf og Ender/ fyrstur og sijdastur. Sæler eru þeir sem hans Bodord vardueita/ vppa þad/ at þeira Magt sie a Lijfs trienu/ og vm Hliden jnngange i Borgena. Þuiad þar fyrer vtan eru Hundarner/ Fiølkyngis menn/ og Saurlifnadar/ og Manndræparar/ og Skurgodadyrkendur/ og aller þeir sem elska og giøra Lygena. — C

Eg Jesus vtsende minn Eingel/ ad hann vitnade ydur þetta i Samkundunum. Eg em Root og Kyn Dauidz/ skiær Morgunstiarna. Og Andenn og Brwdurenn søgdu/ Kom. Og huer ed heyrer/ sa seige/ Kom. Og huer hann þyster/ sa kome/ Og huer ad vill sa medtake Vatned Lijfsins fyrer ecke. — D

Esa. 55.
Joh. 7.

Enn eg vitna øllum þeim sem heyra Ord Spadomsins þessarar Bokar/ At ef einhuer setur þar nockut til/ þa mun Gud til setia yfer hann allar Plaagur sem skrifadar eru i þessare Bok. Og ef einhuer tekur þar nockut i fra/ vt af Ordum Bokarinnar þessarar Spasøgu/ þa mun Gud afma hans Deilld af Lijfs Bokinne/ og af hinne heiløgu Borg/ og af þui sem i þessare Bok skrifad er. Þetta seiger sa sem þijsu ber Vitne/ Ja eg kiem snarliga/ Amen/ Ja/ Kom þu DROTTIN Jesus. Naad vors DROTTINS Jesu Christi sie med ydur øllum AMEN.

**Ender hins nya Testamentis**

# Til Lesarans/

I Fyrstu er eg þess oskande af øllu Hiarta/ ad Þtta Verk mætte verda Allsmegtugum Gude til Lofs og Dyrdar/ eñ þeim til Nytsemdar ꝫ Gagns sem lesa ꝫ Gudz heilaga Ord elska. Þui næst er su mijn audmiuk bon til allra Gudhræddra Danemaña/ Ad huad hellst Prentaranum hefur yfersiedst i Þryckinguñe/ þar eirn Bokstaf kañ ad vanta/ edr Orden kuña ad vera rangstøfud/ ad þeir vilie slijkt til virda mañlegum veykleika / og sialfer þad godmannliga leidrietta og i mæled lesa. Framar meir er eg og so vmbidiande alla mijna Medbrædr i Gudz Orde/ og alla adra Gudhrædda Dugandis meñ/ ad huad mier hefur mætt yfersiast j vtleggingu edur yferlesningu þessarar Bokar/ Þa virdet þad meir vankuñættu minñe/ helldur enn vilialeyse/ Þuiad Gud er minn þss Vottur/ ad eg villda onguañ villa/ helldr hef eg af øllum mætte astundan lagt a þetta Verk/ ad þad mætte sem best fara/ og sem riettast vera. Enn Fiølskyllda mijns Embættis/ sem truligt ma þikia/ þar med marguijsligar hindraner/ Ahyggia og Omak/ sm̃ tilheyrer slijku storu Prentuercks Eruide/ hafa þui mætt vallda huad i þssu Verke hefur forsiedst/ Þar eg hefe ordet optast eirnsamall ad yferlesa/ corrigera/ vtleggia/ med þeim ødrū Hindrunum s̃ slijkt Eruide vtkrefur og Stilnum og Prentuerkenu tilheyrer ꝫ c. Þar fyrer goder Brædur/ giøred nu suo sem Gudz Astuinum hæfer/ Nalldet mier þetta Eruide til goda/ og snued til betrunar þui sem oss hefur mætt yfersiæst. Þar med bidiande Gud Himneskann Fødur fyrer Nafn og Verdskulldan sijns sæta Sonar Jesu Christi/ ad hñ auke ꝫ efle a medal vor sitt Guddomliga Ord þessarar Heiløgu Bibliu/ Og samansafne sier/ vor a medal/ Heilagre kristeligre Kirkiu/ einum Heiløgum Søfnude/ af huerium hñ vilie verda eilijfliga prijsadur og dyrkadur/ Amen. Giarna villda eg hafa læted med þryckia allar þær Figurur/ sem Historiunne Heilagrar Bibliu til heyra/ Enn eg hef ecke kunnad þær ad fæ. Nockrar Greiner epterfylgia hier/ þær ed leidriettingar vid þurfa. Ad hinum ødrum vel flestum er i Textanum sialfum ad giørt / þar sm̃ þui hefr orded vid komed.

Gude Allzmegtugum/ sa hañ er Brunnur og Vpphaf allrar Visku/ Veitare og Giafare þessara og allra añara godra hluta/ huerier ed þiena til sañrar Gudz Vidurkienningar/ honum sie einum Lof og Dyrd/ Heidur og Prijs vm Allder og ad Eilijfu/ AMEN.

Gudbrandur Thorlakson

## Correctura

Exod. xxix. G Linea vij. af miñe/ þar skalltu lesa/ i miñe
Num. xix. D Linea v. þefur giørt/ Les/ hefur giørt
Josu. i. E v. Og Joseph sagde/ Les/ Josua sagde
Josu. xxi. A x. tuttugu/ Les/ tiu
Josu. xxiiij. F x. tuttugu ær/ Les/ tiu ær
Job ij. D þa hlute/ Les/ þa Olucku
Job x. B siñe hende/ Les/ þiñe hende
Esa. iij. D iij. þeim Speñur/ þar skalltu lesa/ Þrra Speñur
Jtm̃/ xl. D ij. Les/ formær. Jtm̃ E viij. Les/ mættlauser
Jtm̃ lxiij. A v. eirn asman/ Les/ eirnsamañ
Jerem. ij. D iij. Eg hafda þig vtsett/ Les/ grodursett
Jtm̃ v. B v. mettad þig/ Les/ mettad þa
Jtm̃ xx. C iij. Les/ straffa mig
Harmagrætur Jeremie/ A vij Strijdzfugl/ Les/ Strudzfugl
Haggei ij. D til forna/ Les/ þar epter
Spekiñar bok x. B iij amiñing/ Les/ miñing
Jtm̃ xviij. A x. Les so/ þa tokstu fiøldañ Þrra barna i burt
i. Maccabe. xij. C xj. vier vilium/ Les/ vier vitum
ij. Maccab. iiij. C v. Les/ Antiochenos/ Jtm̃ Linea x. Les/ Kongur
Jtm̃ xij. B iij. skrip Les/ Skip

Jeremie iiij. Fiorum linum fyrer F/ i Nimnenum/ Les/ i Nimenen
Matth. ij. i nidurlage Cap. Les/ Spamen̄
Itm̄ vi. A x. Les/ en̄ nær
Matth. xxiiij. B vi. Kyrtil sin̄/ Þar epter vantar þesse ord/ Vei þungudum og briostmylkingum a þeim døgum
Luc. xi. F vij. Les/ Meistare/ þetta seiger þu z c.
Itm̄ xiij. D ix. meingade/ Les/ geymde medal þriggia mæla
Itm̄ xviij. B heyre þier/ Les/ heyred hier!
Act. xiiij. D ix. Les/ voru komner þangad og høfdu samansafnad
Ad Philipp. ij. D ij. Naudþurftarþienare er/ Þar epter eiga ad standa þsse ord/ þuiad hann langade til ydar og var miøg hugsiukur/ Af þui etc.
Eb. i. A v. ad ber/ Les/ og ber
Jacob iij. B/ vppbyriar stora hlute/ Les/ kiemur myklu af stad
Apoc. Joh. xij. B x. af hn̄s Stole/ Les/ og til hn̄s stols

# Þetta Bibliu verk var endad

a Holum i Hiallta dal/ af Jone Jons Syne/
þan̄ vj. Dag Junij. An̄o Domini. M D LXXXiiij

Einum/ Almattigum/ Odaudligum Gude/ Fødur og Syne/ og heilogum Anda/ Sa sm̄ er ein̄ Gud j þren̄ingu/ z þren̄ur j einingu/ þm hinū sama sie Lof z Dyrd/ Heidur z Þackargiørd/ vm Allder allda/ z ad eilijfu/ Amen

KRISTILEGRS UTLEGRINGAR
AF JESU NAFNE

1 J Bijnum Stendur (vor Helu hals) a fram
J [illegible] vor Helu hals Her Jesus) apturabak

2 Ilmur Eijlijfslifs Saulukur Vegur Sijgur vinning
3 guddoms [illegible] [illegible] dotter
[illegible] og solu full [illegible] a [illegible] eld og
[illegible] a vorum and legu ovinum
[illegible] samlag [illegible] af [illegible] fiarr [illegible]
Solu full [illegible] nmd gude og Englonum

[illegible] Heidarsel